# ÍSLENDINGADAGURINN



## 1938

Fertugasta og Níunda Þjóðhátíð
Vestur-íslendinga

# Fjallkonan



Frú Halldóra Jakobsson

Photo by Lafayette Studio, Winnipeg.

# Íslendingadagurinn

FERTUGASTA OG NíUNDA ÞJóÐHÁTíÐ
VESTUR-íSLENDINGA

---

**Forstöðunefndin:**

J. J. Samson, forseti
Philip M. Pétursson, vara-forseti
Davíð Björnsson, ritari
Jóh. Sigurðsson, vara-ritari
Jochum Ásgeirsson, gjaldkeri
Ásbj. Eggertsson, vara-gjaldkeri
Erlendur Anderson
Sveinn Pálmason
Eiríkur A. Ísfeld
Th. Thordarson, Gimli
Guðm. Feldsted, Gimli
Th. S. Thorsteinsson, Selkirk

---

HALDINN í GIMLI PARK
MÁNUDAGINN 1. ÁGÚST 1938

I. ÞÁTTUR

**Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins** 1938

Junior Sports Events—Byrja kl. 10 f. h.

1.—Börn upp að 6 ára aldri—20 yards

1. Verðlaun .35
2. Verðlaun .25
3. Verðlaun .15

2.—Stúlkubörn 6 til 8 ára—40 yards

1. Verðlaun .50
2. Verðlaun .35
3. Verðlaun .25

**Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1938**

3.—Drengir 6 til 8 ára—40 yards

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Verðlaun | .50 |
| 2. | Verðlaun | .35 |
| 3. | Verðlaun | .25 |

4.—Stúlkubörn 8 til 10 ára—60 yards

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Verðlaun | .50 |
| 2. | Verðlaun | .35 |
| 3. | Verðlaun | .25 |

**Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1938**

5.—Drengir 8 til 10 ára—60 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .50 |
| 2. Verðlaun | .35 |
| 3. Verðlaun | .25 |

6.—Stúlkubörn 10 til 12 ára—75 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .75 |
| 2. Verðlaun | .50 |
| 3. Verðlaun | .35 |

Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1938

7.—Drengir 10 til 12 ára—75 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | .75 |
| 2. Verðlaun | .50 |
| 3. Verðlaun | .35 |

8.—Stúlkubörn 12 til 14 ára—100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | 1.00 |
| 2. Verðlaun | .75 |
| 3. Verðlaun | .50 |

**Íþrótta- og verðlaunaskrá íslendingadagsins 1938**

9.—Drengir 12 til 14 ára—100 yards

1. Verðlaun 1.00
2. Verðlaun .75
3. Verðlaun .50

10.—Stúlkur 14 til 16 ára—100 yards

1. Verðlaun 1.00
2. Verðlaun .75
3. Verðlaun .50

Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1938

11.—Drengir 14 til 16 ára—100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | 1.00 |
| 2. Verðlaun | .75 |
| 3. Verðlaun | .50 |

12.—Ógiftar stúlkur—100 yards

| | |
|---|---|
| 1. Verðlaun | 1.50 |
| 2. Verðlaun | 1.25 |
| 3. Verðlaun | 1.00 |

öLLUM ÞEIM MöRGU, körlum og konum, sem hafa á einn og annan hátt aðstoðað íslendingadagsnefndina við þetta hátíðahald, tjáir nefndin sínar innilegustu þakkir. Hún óskar öllum samkomugestunum góðrar skemtiferðar og heillrar heimkomu.

Með beztu óskum um góða framtíð

—**Nefndin**

Íþrótta- og verðlaunaskrá Íslendingadagsins 1938

13.—Giftar konur—100 yards

1. Verðlaun........ 1.50
2. Verðlaun........ 1.25
3. Verðlaun........ 1.00

14.—Giftir menn—100 yards

1. Verðlaun........ 1.50
2. Verðlaun........ 1.25
3. Verðlaun........ 1.00

## II. ÞÁTTUR

Senior Sports Events—Byrjar kl. 11 f. h.

Verðlaunakepnin um silfurbikarinn, glímubeltið og skjöldinn byrjar kl. 11. Silfurbikarinn gefinn þeim, til eins árs, er flesta vinninga fær. Beltið þeim, er flesta vinninga fær í íslenzkri glímu. Skjöldurinn þeim íþróttaflokki, tils eins árs, er flesta vinninga fær.

Hver íþrótt því aðeins þreytt, að fjórir eða fleiri keppinautar gefi sig fram.

Mörkum fyrir vinninga skal skift: 5 mörk fyrir fyrsta vinning; 3 mörk fyrir annan vinning og 1 mark fyrir þriðja vinning.

Verðlaun—bikarar og vörur verða veittar fyrir allar íþróttir.

Glíman byrjar að afstöðnum ræðuhöldum.

Eftirfylgjandi skrá skal fylgt, samkvæmt reglum Amateur Athletic Union of Canada. En þó hefir formaður íþróttanefndarinnar vald til að breyta henni, ef nauðsyn krefur. Fyrstu, önnur og þriðju verðlaun verða gefin fyrir eftirkomandi íþróttir:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 15. | 100 yards, open | Merchandise | | |
| 16. | Broad Jump | $3.00 | $2.00 | $1.00 |
| 17. | 100 yards | 3.00 | 2.00 | 1.00 |
| 18. | 440 yards, open | Merchandise | | |
| 19. | Hop, Step and Jump | 3.00 | 2.00 | 1.50 |
| 21. | Shot Putt | 3.00 | 2.00 | 1.50 |
| 22. | 440 yards | 3.00 | 2.00 | 1.50 |
| 23. | Pole Vault | 3.00 | 2.00 | 1.50 |
| 24. | Relay | 4.00 | 3.00 | |
| 25. | 880 yards | 3.00 | 2.00 | 1.50 |
| 26. | High Jump | 3.00 | 2.00 | 1.50 |
| 27. | One Mile | 4.00 | 3.00 | 2.00 |
| 28. | Glima | Hannesson's Belt | | |
| 29. | High Individual | Skuli Hanson's Trophy | | |
| 31. | High Club | Shield | | |

Dansinn byrjar kl. 10 síðdegis og verður í danssal lystigarðsins; dansað verður til kl. 3 f. h. Gömlu og nýju dansarnir verða dansaðir.

# Ísland

Í samhljóm við úthafsins ölduspil
Skal alt þín minnast, sem finnur til.
Og börn þín í ljúfri lotning
Fagnandi syngja burt húm og haust
Hærra brimsins og stormsins raust.
Fornhelga Fjalladrotning!

Fjarst í austri er þín mæra mynd
Er miðnætursól um fjallatind
Vefur þig ástarörmum.
Eilífðin sjálf þar á sinn draum,
Er opnast þín blóm við ljóssins straum.
Með kristalla tár á hvörmum.

Þú átt, svo fagurt og ylríkt mál.
Það ávalt hljómar í minni sál,
Sem dýrðlegur bernskudraumur.
Vögguljóðin þín vængja breið
Vekjandi raddir á þroskans leið
Er hreinn og hressandi straumur.

## III. ÞÁTTUR

Kl. 2 e. h.

Fjallkonan, frú Halldóra Jakobsson leggur blómsveig á landnema minnisvarðann

Sungið: Ó Guð vors lands.

# Skemtiskrá

**Í GIMLI SKEMTIGARÐI KL. 2.30 E. H.**

Fjallkonan gengur til hásætis; sungið: Ó Guð vors lands

1. Sungið: O Canada.
2. Forseti, J. J. Samson setur hátíðina.
3. Fjallkonan flytur ávarp.
4. Karlakór, undir stjórn Ragnars H. Ragnar.
5. Jónas alþingismaður Jónsson flytur ávarp.
6. Karlakór.
7. Ávörp frá heiðursgestum.
8. Karlakór.
9. Minni Íslands. Ræða: Dr. Richard Beck.
10. Minni Íslands. Kvæði: Dr. Sveinn E. Björnsson.
11. Karlakór.
12. Minni Vesturheims. Ræða: Stefán Hansson.
13. Minni Vesturheims. Kvæði: J. H. Húnfjörð.
14. Karlakór.
15. Eldgamla Ísafold—God Save the King.

Hljómsveit og dans í Gimli Pavilion—Aðgangur 25c
Aðgöngumiðar að dansinum til sölu frá kl. 9 að kvöldinu

Eg hefi teigað þá heilsulind.
Í hjarta geymi eg þína mynd:
Þá litfögru listasmíði.
Þótt fjarlægð skilji og fenni spor
Í faðmi þér liggur mitt æskuvor.
Og vonaheimurinn víði.

Því margblessuð sértu móðir góð.
Þinn máttur finnur hin týndu ljóð
Er felast á förnum leiðum.
Í gegn um árin því frið eg finn
Og fögnuð við stjörnuhimin þinn
Í heiðlofti á þínum heiðum.

S. E. Björnsson

# Minni Vesturheims

Fjölþjóða land! Þér fósturbörnin unna
— Framandi kvistir nærðir frjómold þinni,
Víðfeðmi þinna vorsins nægtabrunna
Vakið fá lotning hverju hugans inni.
Manndóminn hækkar hæðsta klifa tindinn
Hyllingavíddir fósturlandsins skoða.
Hugdirfðir stælir halda beint í vindinn
Hopa til hvergi—brattans sigra voða.

Firðsýnir Leifs, þig landið drauma eygði,
Ljósbrota hjúpi morgunsólar vafið,
Hrifningu vöktu—höfuð bljúgur beygði;
Hrakninga volkið sökk í gleymsku kafið.
Kynstórra feðra afl í taugum átti
Aldrei því fyrri hafði neinum lotið,
Framtaka eðlið sín þó meira mátti.
— Mótun þín síðar, norræns þroska notið.

Landnemafjöld um lendur þinna skóga
Lúans oft kendu, nútíð þótt ei saki.
Vonin að sigra efldi orku nóga
Æfingu, til að lyfta Grettistaki:
Brautir að ryðja, brúa fúakeldur,
Beislandi fljót, til orku nýrra starfa,
Frjógaða reiti rækta þar sem eldur
Ríkti fyr, — til mannfélagsins þarfa.

Fjölþjóða land! Þig kúgun hvergi saki,
Kynþátta mergð þín friðarböndin tengi.
Heill þinni yfir helgar dísir vaki,
Herlúðra gnýrinn sízt af hlustum þrengi.
Lýðræðis hugsjón lýsi þínum börnum
Langt yfir fánýtt dægurmas og þrætur,
Beini þeim framhjá brautum villu gjörnum,
Bræðraþels samtök ylji hjartarætur.

**Jóhannes H. Húnfjörð**

# Alþýðu Söngvar

1.

Hvað er svo glatt, sem góðra vina
fundur,
er gleðin skín á vonarhýrri brá?
Eins og á vori laufi skrýðist lundur,
lifnar og glæðist hugarkætin þá;
og meðan þrúgna gullnu tárin glóa
og guðaveigar lífga sálaryl,
þá er það víst, að beztu blómin gróa
í brjóstum, sem að geta fundið til.

2.

Ó, fögur er vor fósturjörð
um fríða sumardaga,
er laufin grænu litka börð
og leikur hjörð í haga,
en dalur lyftir blárri brún
mót blíðum sólarloga
og glitrar flötur, glóir tún
og gyllir sunna voga.

3.

Táp og fjör og frískir menn
finnast hér á landi enn,
þéttir á velli og þéttir í lund,
þrautgóðir á raunastund.
Djúp og blá blíðum hjá
blika drósum hvarmaljós;
norðurstranda stuðlaberg
stendur enn á gömlum merg.

4.

Fósturlandsins Freyja,
fagra Vanadís,
móðir, kona, meyja,
meðtak lof og prís!
Blessað sé þitt blíða
bros og gullið tár;
þú ert lands og lýða
ljós í þúsund ár.

5.

Heyrið morgun söng á sænum,
sjáið bruna fley
undan hægum byrjar-blænum
burt frá strönd og ey;
sólin skreytir skipa raðir,
skín hver þanin voð;
söngljóð kveða sjómenn glaðir
snjalt á hverri gnoð.

6.

Stóð eg úti' í tunglsljósi, stóð eg út
við skóg
—stórir komu skarar, af álfum var
þar nóg;
blésu þeir á sönglúðra' og bar þá að
mér fljótt
og bjöllurnar gullu á heiðskýrri nótt.

7.

Frjálst er í fjallasal,
fagurt í skógardal.
Heilnæmt er heiðloftið tæra;
hátt yfir hamrakór
himininn blár og stór
lyftist með ljóshvolfið skæra.

8.

Ólafur reið með björgum fram,—
villir hann, stillir hann,—
hitti fyrir sér álfarann.
Þar rauður loginn brann;
blíðan lagði byrinn undan björgunum
fram.

9.

Þú, sæla heimsins svalalind,
ó, silfurskæra tár!
er allri svalar ýta-kind
og ótal læknar sár.

10.

Ó, Guð vors lands! ó, lands vors Guð,
vér lofum þitt heilaga, heilaga nafn.
Úr sólkerfum himnanna hnýta þér
kranz
þínir herskarar tímanna safn.
Fyrir þér er einn dagur sem þúsund ár,
og þúsund ár dagur, ei meir,
eitt eilífðar smáblóm með titrandi tár,
sem tilbiður Guð sinn og deyr.
Íslands þúsund ár, Íslands þúsund ár,
eitt eilífðar smáblóm með titrandi tár,
sem tilbiður Guð sinn og deyr.

11.

Eg man þá tíð í minni' hún æ mér er,
þá ársól lífsins brann mér heitt á
vanga,
og vorblóm ungu vakti' í brjósti mér
sem velkja náði' ei hretið enn hið
stranga.

12.

Sjáið hvar sólin nú hnígur,
svífur að kvöld-húmið rótt;
brosir hún blítt, er hún sígur,
blundar, senn foldarheims drótt.
Heyrið þér klukkuna', hún klingir við
lágt,
kallar í húsin til aftansöngs brátt.
Klukka! ó, fær oss nú fró,
friðinn og heilaga ró.

13.

Vængjum vildi' eg berast í vindaléttum blæ,
djarft um fjöll og dali og djúpan reginsæ.
Vængjum líða' í lofti, við ljósbjart sólar-hvel,
vængjum sælum svífa, með sigri yfir líf og hel.

14.

Þú bláfjallageimur með heiðjöklahring,
um hásumar flý eg þér að hjarta.
Ó, tak mig í faðm þinn, minn söknuð burt eg syng
:;:Um sumarkvöld við álftavatnið bjarta:;:

15.

Svífur að haustið og svalviðri gnýr,
svanurinn þagnar og heiðlóan flýr,
blóm eru fölnuð í brekkunum öll;
bylgjurnar ýfast og rjúka sem mjöll.
Fleygir burt gullhörpu fossbúinn grár,
fellir nú skóg-gyðjan iðjagrænt hár.

16.

Nú er frost á Fróni,
frýs í æðum blóð,
kveður kuldaljóð
Kári í jötunmóð;
yfir laxalóni
liggur klakaþil,
hlær við hríðarbyl
hamragil.
Marar bára blá
brotnar þung og há
unnar-steinum á
ygld og grett á brá;
yfir afla-tjóni
æðrast skipstjórinn,
harmar hlutinn sinn,
hásetinn.

17.

:;:Til Austurheims vil eg halda,
þar hjartakærust ástin mín býr:;:
:;:Bak við fjöll og djúpa dali
hún dvelur und laufgrænum meið:;:

18.

Geng eg fram á gnýpu og geigvæna brún,
:;:djúpan lít eg dalinn og dáfögur tún:;:

19.

Nú blika við sólarlag sædjúpin köld;
Ó, svona' ætti að vera hvert einasta kvöld;
með hreinan og ljúfan og heilnæman blæ
og himininn bláan og speglandi sæ.

20.

Nú er sumar,
gleðjist gumar,
gaman er í dag;
brosir veröld víða,
veðurlagsins blíða
eykur yndishag.

21.

Látum af hárri heiðarbrún
ljóshraða svífa sjón
sviptígið yfir Frón.

22.

Hvert svífið þér svanir af ströndu,
með söngvum í bláheiðan geim?
Eg sé það á öllu þér ætlið
í ósýnis fjarlægan heim.

23.

Mér um hug og hjarta nú
hljómar sætir líða.
Óma vorljóð, óma þú
út um grundir víða;
hljóma þar við hús þú sér
hýrleg blómin skína;
Fríðri rós sem fyrir ber
færðu kveðu mína.

24.

Af stað burt í fjarlægð við hornahljóðin ströng,
og hefjum upp raddir í drengilegum söng,
:;:sem morgunblær um löndin frelsið fer,
og frjálsa glaða lífið það kjósum vér:;:


LONG MAY THEY REIGN!
H. M. KING GEORGE VI
H. M. QUEEN ELIZABETH